Við góðdrykkju í guða höllu —
hvar gnægtir er' af víni og öllu
góðu, sem hölda gleðja má
varð tilrædt um hvað veslum gæti
veitt mönnum stærsta og bezta kæti;
goðin sjálf um það greindi á.

Júppíter, sem að vildi vera
að vaŋa mestr, sagðist gèra
umhleypíngs ræfil auðugann.
En Júnó vildi veita konu
vænar dætr og hrausta sonu,
því barnalánið bezt hún fann.

Venus sagði: eg veiti fljóði,
við henni svo ei kallmenn bjóði
líkíng mína og limaburð.
Amor kvaðst henni ætla' að miðla
úuga, fríða og ríka biðla
— á góðu höfð' ei goðin þurð.

Vúlcan gaf íþrótt abl og þreki;
Apolló sagðist veita speki;
Mínerva hetju hug og dáð.
Mercúr lèt koma' úr Chínaförum
til kaupmanns óvænt skip með vörum;
— fyrir öllu góðu gjört var ráð.

Ýmisligt goðin enn nú sögðu
en Æsculap og Bacchus þögðu —
þegar hljóð loks í höllu var —
sagði Æsculap: eg vil leita
öllum heilla, því eg skal veita
hrumum mönnum gott heilsufar.

Ykkar gjafir vel ýmsir meta,
án minnar hjálpar þó ei geta
þeir við gáfurnar gottað sig;
auðr, metorð og annað fleira,
ei gleðr sjúka tegund meira,
enn vínið Bacchus! vökvar þig.

Allir þögnuðu, og það hann sagði
þeir játuðu að vörmu bragði,
þá reisti bróðir Bacchns sig,
hálfglaðr studdist hann við borðið —
og hóf svo ræðu — satt er orðið!
en eg skal hjálpa uppá þig.

Eg veit heilbrygðin alla kætir
en hana styrkir vín og bætir —
Æsculap veit það er ei raup.
Eg gef vínið — en Æsculapi
æruna — og nú að mínu skapi
skeinkið þèr ljúfum læknir staup.

Vil eg og hvör sem vel er glaðr
vesæll og ríkr, biðji maðr
ef hýrgar vín, og hefir mál:
Æsculap lifi! — og hans synir!
— í hlýðni við slíkt boðorð vinir!
Drekkum vèr okkar **Eggerts** skál!